# Útlegging

## af brjefi til rentukammersins frá Viborg, kennara við dýralæknaskólann í Kaupmannahöfn, dagsettu 27da marzmánaðar 1844, um fjársýki á Íslandi.

„Hið konunglega rentukammer hefir ritað mjer 30sta dag desembermánaðar í fyrra, og beðið mig að láta í ljósi álit mitt um, með hverjum hætti reistar yrðu skorður við fjársýki þeirri, er gengið hefir um suðurhlut Íslands veturinn 1842 og 1843, og verið allskæð; eg vil því eigi leiða hjá mjer undirgefnast að fram færa það er hjer segir:

Amtmaðurinn hefir sent skýrslur frá mörgum sýslumönnum hingað, og er í þeim lýst sýki þessari og einkennum hennar, og á hinn bóginn sýnt, hvernig innýflin líta út, þá er skepnan er dauð. Eptir skýrslum þessum þykir enginn efi vera á því, að fjársýki þessi á skylt við miltisbrand, og er hún kölluð bráðasótt eða blóðsótt.

Sýki þessi kemur allt í einu að skepnunni, og drepur hana á skömmum tíma, og er fyrir þá sök opt óhægt að koma við læknishjálp, einkum á Íslandi, því dýralæknar eru þar svo fáir. Sýki þessi mun hafa sín upptök í því, hvernig með skepnurnar er farið, og að nokkru leiti mun landslaginu um að kenna, en af þessum rökum veitir eigi hægt að tilgreina hvað bezt muni eiga við henni.

Fyrst þykir hlýða að skýra frá hverjar orsakir muni vera til fjársýkinnar, og því næst tilgreina með hverjum hætti, að minni hyggju, bezt myndu reistar skorður við henni á Íslandi.

Í skýrslum þeim, er áður gat eg um, hafa verið tilgreindar margar orsakir til fjársýkinnar á suðurlandi veturinn 1842 og 1843, en þessar þykja mjer mest eptirtektaverðar: 1) fjeð missir of snögglega útigangsins, og lifir eingöngu á heyinu. 2) heyið er skemt og miglað, og drykkjarvatnið fúlt. 3) snögg veðrabrigði. 4) hrímhjela situr á grasinu. 5) skepnunum er haldið of lengi í fjárhúsunum milli þess þær eru látnar viðra sig, og verður þá loptið í þeim mjög óhollt. 6) fjárhúsin leka, eru lítil, dimm og rakasæl. 7) eiturúrtum er án saka kennt um sýki þessa, því þær hafa með öllu önnur áhrif og einkenna sjúkdóma þá er af þeim leiða með öðrum hætti enn hjer. 8) kindunum er of snögglega kippt af góðu eldi og settar á illt hey. 9) sýki þessi er næm. — Þá er ein eða fleiri af skaðsemdum þessum leggst á skepnuna, þá kemur af því óreglulegur blóðefnablendingur, og deyr þá skepnan annaðhvort þegar, eða hún fær ákafann kuldakvilla (*Feber*). Kolefnið eykst um of í blóðinu og vatnsefnið, þaraf kemur óregla í magablóðkerfinu, og þá meltir skepnan illa, og í vömbina safnast grasið ómelt og í vinstrina og botnlakann —; skepnan fær afbendi og bólga hleypur í öll apturinnýflin.

Menn verða að varast, að svo miklu leiti því verður við komið sökum landslagsins, að hleypa kindunum mjög snögglega út á nálina eða nýgræðuna á vorin, og með engu móti mega þær fyrst í stað koma fastandi út á morgnana, og er þessi varúð mjög svo áríðandi. Verði eigi hjá því komist, að gefa fjenaðinum miglað eða skemt hey, þá er nauðsynlegt, að þurka það eða viðra svo vel sem föng eru á áður enn það er gefið á jötuna, og er þá stráð innan um það salti og beiskum urtum. Verði snögg veðrabrigði, má eigi beita fjenaðinum á meðan á því stendur, en halda honum þeim mun lengur í húsunum. Sje mikil hrímhjela fyrst á morgnana, verður að halda fjenu inni þar til af fer að taka, og gefa því morguntuggu. Allan veturinn skal viðra fjeð á hverjum degi ef veður er til þess; það bætir loptið í fjárhúsunum, og útiloptið gerir kindurnar bragðlegri. Fjárhúsin þurfa að vera öldungis súglaus og þur, og eigi tjáir að of sett sje á þau, því slíkt skemmir loptið í þeim og eykur sóttnæmi. Fjárhúsdyrnar og gluggarnir eiga með jafnaði að standa opnir, þó svo, að eiga aukist súgur í fjárhúsunum. Varast verður að gefa kindum þeim magngott hey í fyrstu, er áður eru orðnar magrar, því þá er hætt við að veikindi komi í þær.

Miltisbrandur og allir sjúkdómar sem eiga skylt við hann, eru næmir, sumir meir og sumir minna, og ber því þess að gæta, að láta eigi hraust fje hafa samgang við kindur þær, er fengið hafa sýki þessa, og þegar skal taka út úr húsunum og grafa í jörð niður, þær er dáið hafa úr henni; kjötið af þeim er óætt bæði fyrir menn og skepnur, og sá er flær af þeim skinnið, sje það annars gjört, verður að hafa hina mestu aðgætni á sjer, að hvorki hafi hann sár á höndunum, eða hann skeri sig á meðan hann er að flá þær.

Þá er til læknis verður náð, er það fyrst til ráða, að koma blóðinu og efnablending þess í rjett horf. Skal þá í því skini gefa skepnunni urtasýrur eða steina (*vegetabilske og mineralske Syrer*) í drykkjarvatninu, og skal láta í það svo mikið af sýrum þessum, að vatnið breyti bragði. Má hafa til þessa saltsýru eða brennisteinssýru, edik, einnig kvikur (*Suurdeig*) leystar í sundur í vatni. Optast nær er vön að hlaupa bólga í garnirnar, og má með hægum blóðtökum lina hana, einkum ef kindin er blóðrík, einnig með kælandi salti, annaðhvort glaubersalti eða venjulegu salti. Saltið er látið saman við lýsi, feiti eða viðsmjör (olíu) og er því þannig hellt ofan í skepnuna, og fær hún þá hægðir. Líka má við hafa til þessa stólpípu og seltuvatn."

Prentað hjá *S. L. Möller*.